M. er þeir váru búnir, mælti Oddr: «ek ætla, at þit Guðmundr ok Sigurðr skuluð leggja á annat borð drekanum, en vit Asmundr á annat». Nú gøra þeir svá sem Oddr mælti fyrir, þeir róa hljóðliga; skipin lágu rúmliga fyrir á váginum. Oddr rœr fram hjá drekanum, ok þá er þeir váru komnir á bæði borð, þá finna víkingar eigi fyrr, en þeir velta viðum á bæði borð, ok fylgir maðr upp hverjum kvisti, ok berja þeim tjaldkúlur. Svá ryðja þeir Oddr ok Ásmundr, at fyrr hafa þeir ruddan drekann alt aptr at lyptingu, en Hálfdan kemz á fœtr. Þar drepa þeir Hálfdan jafnt í lyptingunni, ok síðan gørði Oddr þeim tvá kosti, er eptir lifðu, hvárt þeir vildi heldr halda upp bardaga eða ganga til handa, en þeir kjósa skjótt ok vilja ganga til handa Oddi. Hann velr af qllu liðinu þat, er honum þótti skjótligast; drekann hefir Oddr sér til eignar ok annat skip með, en qnnur skip gefr hann víkingum; fé tók hann alt til sín. Nafn gaf hann drekanum ok kallaði Hálfdanarnaut; þá sigla þeir heim til Hrafnistu ok hafa fengit mikinn sigr ok sitja heima um vetrinn.

**14.** Ok er vára tók, þá býr Oddr ferð sína ór landi, ok þá er þeir váru búnir, spyrr Oddr fqður sinn: «hvar vísar þú oss nú til víkings nqkkurs þess, er nqkkur veig sé í?» «Sóti heitir víkingr sá, er ek mun vísa yðr til; hann liggr suðr fyrir Skíðu, hann hefir xxx skipa». Þá halda þeir frændr fimm skipum ór Hrafnistu. En er á leið á sumarit, þá spyrr Sóti til fara

[1] mælti—þit] *so* AB, segir Oddr at þeir M, *vgl.* 55[2]. [2] leggja] ganga AB. drekanum] *so* ABE, *om* M, *vgl.* 55[3]. [2—3] en—annat] *so* E, *om* MAB, *vgl.* 55[3]. [3—4] Nú—róa] nú róa þeir E. [3] sem—fyrir] *om* A. [4] þeir] ok AB. róa] nú at *add* AB. rúmliga fyrir] fyrir fram A, rúmt E. váginum] sjónum E. [4—5] Oddr—drekanum] *om* E. [6] viðum] viðjunum A, stórviðum E. [6—7] á—borð] á drekanum *add* E. [7] berja þeim] veita þeim þar ekki góðar E. [8] Svá ryðja] ok ryðjaz ABE. at] fast um ok ABE. [9] ruddan] rutt E. alt] *om* E. aptr] *so* ABE, *om* M, *vgl.* 55[9]. en] áðr E. [10] Þar—þeir] því þeir drepa E. jafnt] *om* ABE. í lyptingunni] í því hann ætlaði at hefjaz handa E. síðan] þá ABE. [11] gørði] bauð E. er—lifðu] *om* ABE. [12] heldr] *om* ABE. upp] *om* E. til handa] á hqnd (hendr E)

drekann». Svá gørđu þeir, sem Oddr mælti, ok er þeir váru búnir, mælti Oddr: «þit Guđmundr ok Sigurđr skuluđ leggja skip ykkat á annat borđ drekans, en vit Ásmundr á annat». Þeir róa nú hljóđliga; skipin lágu rúmt í hǫfninni, róa þeir Oddr nú á bæđi borđ drekanum, ok þegar fylgđi mađr upp hverjum kvisti; hleypđu þeir þá á þá tjǫldunum, bǫrđu þeir þá tjaldkúlur ekki hagliga, þvíat þeir bǫrđu ok drápu alt þat er kvikt var. Þar urđu skjót umskipti, þvíat á skammri stundu hǫfđu þeir ruddan drekann aptan at lyptingunni. Hálfdan hafđi hlaupit í klæđi sín, er hann heyrđi harkit, ok þvínæst greip hann vápn; hljóp hann þá fram á lyptingina ok kallar á ǫnnur skipin, bađ þá leggja at sem tíđast. Oddr heyrir þetta ok sá Hálfdan, hann krœkđi þá øxi á lyptingina ok fleygđi sér upp í lyptingu. Hálfdan hjó í móti honum, kom hǫggit á hjálminn, en hann bilađi eigi; brast þá sverđit undir hjaltinu. Oddr hjó þá Hálfdan banahǫgg. Oddr gørir þá kosti þeim mǫnnum hans, hvárt þeir vilja halda viđ hann bardaga eđa gøraz hans menn, en þeir køru skjótt, kóđuz vilja honum til handa ganga. Oddr tekr þá af liđi því þat, er honum þótti frœknligast; drekann tekr Oddr ok sér til handa ok annat skip, þat er honum þótti bezt; fé ok alt tekr hann til sín. Síđan gefr hann víkingum ǫnnur skipin. Dreka þeim stýrir Oddr nú ok gefr nafn ok kallar Hálfdanarnaut. Oddr dvalđiz þetta sumar alt úti á skipum fyrir Noregi ok friđađi fyrir kaupmǫnnum, en um haustit sigla þeir norđr til Hrafnistu

honum ABE. 12—13 kjósa skjótt] gøra (þat *add* A) skjótkørit ABE. 13 vilja] *om* ABE. ǫllu liđinu] víkinga liđinu BE, þeim A. 14 skjótligast] knáligast ABE. 14—15 sér—eignar] sjálfr E. 15 skip] *om* E. međ] til ABE. en] ǫll *add* ABE. 16 fé] góđa gripi E. 17—18 fengit- sigr] framaz mikit E. 18 sitja heima] eru (sátu E) þar ABE. 19 ferđ] fǫr ABE. 19—20 ok—búnir] *om* E. 21 nú til] *om* B. víkings nǫkkurs] víkinga nǫkkur M, víkings ABE. nǫkkur veig] nǫkkurr veigr B, nǫkkurr vegr AE, slœgr M, *vgl.* 57[4]. 23 hann—skipa] međ xxx skipum E, ok ǫll stór *add* ABE. fimm] sex E. 24 ór Hrafnistu] suđr fyrir Skíđu (ok í brott frá Hrafnistu *add* AB) ABE. á] *om* ABE. fara] ferđar ABE.

M. Odds ok ferr hann í mót honum dagfari ok náttfari, til þess er hvárir sjá aðra. Þá hefir Sóti andviðri, þá tekr Sóti til orða: «nú munu vér leggja skip vár hvert at enda annars, ok mun ek leggja drekann í mitt liðit, þvíat ek hefi spurt, at Oddr er kappsmaðr mikill, ok ætla ek, at hann muni sigla at skipum várum. En þá er þeir hafa lægt segl sín, þá skulu vér hring at slá at skipum þeira ok láta aldri mannzbarn í brott komaz». Nú er at segja frá fyrirætlan Odds: «ek sé ráð þeira Sóta, þeir ætla at vér munim sigla at skipum þeira». «Mun eigi þat heldr úráðligt?» sagði Guðmundr. «Eigi skal únýta ráð Sóta. Svá ætla ek», segir hann «at sigla fyrst dreka mínum þar, er Sóti liggr fyrir. Vér skulum alt bera aptr um siglu». Ok svá gøra þeir, en drekinn gengr geystr Hálfdanarnautr, hann var járnaðr alt framan um barðit. Drekinn gengr á kjalarhælinn ok svá veðr hann uppi. Oddr mælti: «sigla ætla ek á drekann Sóta, en þér skuluð sigla eptir, verða þœtti mér svá mega, at tengslin gengi í sundr milli skipanna». Þá siglir Oddr, sem drekinn má mest ganga; eigi finnr Sóti fyrr, en siglt var á hann upp ok ganga tengslin,

---

[1] hann] *om* ABE. náttfari] *so* ABE, fari M. [2] sjá] finna A. [3] skip vár] *so* ABE, skipin M, *vgl.* 57[11]. at—annars] af (út af A, at E) ǫðru ABE. [4] drekann] mínu skipi ABE. í—liðit] í miðju (liðinu *add* B) AB, at landi miðju E. spurt] *so* ABE, spurdaga til M, *vgl.* 57[12]. [6] þeir] koma ok *add* A. [7] at *vor* slá] *om* ABE. þeira] Odds *add* E. aldri] ei E. [7—8] í brott] undan ABE. [8] fyrirætlan] ætlan AE, *om* B. Odds] Oddi, at hann mælti B. [9] ráð] ætlan E. Sóta] *om* E, sagði hann, hvert þat er *add* AB. [10—11] Mun—skal] *so* AB, en mér líz þat úráðligt. Vér skulum M, *vgl.* 57[18—19]. [10] heldr] *om* E. úráðligt] ráðligt E. [11] Sóta] sagði Oddr, en ráð skal í móti (ráði *add* E) koma *add* ABE. Svá] *om* ABE. [12] fyrst] á *add* E. þar] at *add* AE, á *add* B. [13] gengr geystr] geystiz mjǫk E. [14] járnaðr] járni varðr (vafðr E) ABE. alt] allr ABE. um] yfir B. [15] Drekinn] en hann A. kjalarhælinn] kjalarhælnum ABE. ok—uppi] *om* A. [16] sigla *vor* ætla] *om* E. Sóta] *om* B. sigla *vor* eptir] á *add* E. [17] svá] *om* ABE. tengslin] tengsl þeira ABE. [18] milli skipanna] sem á millum skipa eru E, *om* AB. [18—19] Þá—tengslin] *om* E. [19] ok] sundr *add* AB. tengslin] í millum skipanna *add* AB.

ok hafa fengit ágætan sigr ok øróf fjár. Grímr býðr þeim S. ǫllum til sín, sitja þeir þar um vetrinn. Um várit búaz þeir í hernað, ok er þeir váru búnir, spyrr Oddr fǫður sinn, hvar hann vísi honum til nǫkkurs víkings þess er nǫkkur veig sé í. Grímr mælti: «Sóti heitir víkingr, hann liggr suðr fyrir Skíðu, hann er mikill fyrir sér, hann hefir XL skipa ok auð fjár». Eptir þat skilja þeir; halda þeir frændr suðr með landi fimm skipum. Ok er á leið sumarit, þá spyrr Sóti til ferða þeira Odds ok ferr þegar í móti þeim. Sóti fær þá andviðri, fekk hann þá njósn af sigling þeira. Hann mælti þá: «nú skulu vér leggja skip vár hvert af stafni annars, skal dreki minn liggja í miðjum flotanum. Ek hefi spurt, at Oddr er kappsmaðr mikill, mun hann sigla at skipum várum. En er þeir hafa felt seglin, þá skulu vér slá hring útan at skipum þeira ok láta ekki mannzbarn á braut komaz».

Nú er at segja frá tiltekjum Odds. Er þeir sá flota Sóta, þá mælti Oddr: «sé ek fyriræ̨tlan Sóta, at vér skylim sigla at skipum þeira». Guðmundr segir: «mun þat eigi heldr úráðligt við liðsmun þann sem er?» Oddr mælti: «eigi skal únýta ráð Sóta, ek mun sigla fyrir dreka mínum». Oddr hét á menn sína, bað bera aptr frá siglu allan þunga, þann er þeir mætti. Síðan bað hann alla menn herklæ̨dda vera fyrir aptan siglu, en er þetta var gørt, bað hann slá við ǫllu segli. Byrr var at inn bezti, geisaði drekinn uppi fast Hálfdanarnautr, hann var járnaðr allr framan um barðit, en þessa tiltœkis varði engan mann. Sóti verðr nú eigi fyrr varr við, en drekinn rendi upp á drekann Sóta flatan, váru þeir þá at at herklæðaz, hljópu þeir Oddr þá á drekann Sóta ok ruddu þeir hann á skammri stundu ok drápu Sóta. Oddr gørir þá kosti víkingum,

10 njósn] aniosn *oder* amosn S, a *und der folgende buchstabe sind aneinandergeschrieben.* 19—20 skal únýta *Rask*] skaltu ýta S, *vgl.* 56[11]. 26 varr] *durch einen flecken unlesbar.* 26—28 drekinn—Sóta] *die obere hälfte der zeile ist abgeschnitten, das ganze aber zu lesen.*

M. en þeir Oddr hlaupa fram um siglu herklæddir ok þegar upp á drekann, ok fyrr hafa þeir ruddan drekann ok drepit Sóta, en þeir Guđmundr kœmi at. Þá gørir Oddr þeim kosti víkingum, hvárt þeir vilja griđ taka eđa halda upp bardaga viđ hann, en þeir køru friđ. Drekann tekr hann af skipum en gefr þeim upp ǫnnur. Nú sigla þeir heim í Hrafnistu međ mikinn fjárhlut, ok varđ Grímr þeim feginn. Þar eru þeir Oddr um vetrinn í mikilli kæti ok virđingu.

**15.** Nú sem á misserin líđr, þá búa þeir Oddr skip sín fimm ór landi. Oddr vandar nú liđ mjǫk međ sér til herferđar; þeim Guđmundi ok Sigurđi gefr Oddr drekann Sótanaut. Allan lét Oddr steina drekann Hálfdanarnaut ok gulli lætr hann búa drekahǫfuđin bæđi ok svá veđrvitann, en þá er búin var ferđ þeira, þá gengr Oddr til fundar viđ Grím. «Nú skaltu vísa oss til þess víkings, er þú veizt mestan fyrir sér». «Þat er nú bæđi», kvađ Grímr «at þér eruđ miklir fyrir yđr, ok ekki œgir yđr ok þykkir yđr svá. Vísa má ek yđr til víkinga þeira, er ek veit mesta ok bezt at sér; sá heitir einn Hjálmarr, er kallađr er inn hugumstóri, en annarr Þórđr ok er kallađr stafngláma». «Hvar eru þeir» segir Oddr «eđa hvé margir eđa hvé mart hafa þeir skipa?» «xv skipa hafa þeir» segir Grímr «ok hundrađ manna á hverju». «Hvar hafa þeir friđland?» segir Oddr. «Í Svíþjóđu», segir Grímr «Hlǫđver heitir konungr, sá er ræđr fyrir Svíþjóđu, þar eru þeir um vetrum en liggja á herskipum um sumrum». Ok þegar er þeir Oddr

---

[1] þeir—hlaupa] Oddr hleypr ABE. herklæddir] herklæddr AE, *om* B. ok] Ásmundr. Þeir koma í opna skjǫldu þeim Sóta ok hlaupa *add* ABE. þegar] *om* E. [1—2] upp á] ofan í AB. [2] ruddan] rutt BE. [3] en] heldr en E. kœmi] koma ABE. þeim] *om* AB. kosti] kost A, tvá kosti BE. víkingum] *om* E. [4] taka] þiggja E, af honum *add* ABE. upp] *om* BE. viđ hann] *om* ABE. [5] friđ] viđ Odd *add* ABE. af skipum] *om* E. [6] upp] *om* ABE. ǫnnur] skip *add* ABE. í—fjárhlut] *om* E. í] til AB. [7] eru] sátu E. Oddr] *om* ABE. [8] í—virđingu] *om* E. kæti ok] *om* AB. virđingu] virđing M. [9] misserin] *om* E. fimm] *om* A. [10] landi]

hvárt þeir vilja halda við hann bardaga eða taka grið, en S. þeir gáfuz þegar upp. Oddr tók þar drekann Sótanaut ok þrjú ǫnnur ok úgrynni fjár; valði hann ok af liðinu þat, er honum þótti bazt búit ok vígligast. Síðan snøru þeir norðr aptr ok léttu eigi fyrr en þeir kómu norðr í Hrafnistu; tók Grímr við þeim báðum hǫndum ok býðr þeim til sín, ok þat þágu þeir. Sátu þeir þar nú of vetrinn með mikinn prís.

En er á leið misserin, þá búa þeir Oddr skip sín ór landi: þeir hafa nú fimm skip. Oddr vandar nú liðit mjǫk, ok er þeir váru búnir, gengr Oddr at fǫður sínum ok mælti: «nú skaltu vísa oss til víkings þess, er þú veizt verstan ok mestan». Grímr segir: «þat er nú bæði, at þér eruð miklir fyrir yðr, enda þykkir yðr þat. Vísa mun ek yðr til þeira tveggja víkinga, er ek veit mesta ok bezt at sér; annarr heitir Hjálmarr inn hugumstóri en annarr Þórðr stafngláma». Oddr mælti: «hvar hafa þeir friðland eða hvé mart lið hafa þeir?» Grímr segir: «þeir hafa xv skip ok hundrað manna á hverju skipi, en þeir hafa friðland á Svíþjóðu; þar ræðr fyrir konungr sá, er heitir Ingjaldr inn illráði. Þeir hafa þar vetrsetu ok landvǫrn ok eru úti hvert sumar á herskipum». Þeir Oddr biðja nú fǫður sinn vel lifa; sigla þeir nú austr með landi; er nú ekki sagt frá ferð þeira, fyrr en þeir kómu við Svíþjóð

---

**ok drekann at auki *add* E. Oddr—herferðar] *om* E. mjǫk] *so* AB, *om* M, *vgl.* 59₉. herferðar] ferðar AB. [13] svá] *om* ABE. [14] ferð þeira] þetta E. Grím] fǫður sinn *add* AB. [15] oss] mér ABE. fyrir sér] *om* AB, ok frægstan E. [16—17] ok—ok] enda ABE. [17] svá] at ekki reisir rǫnd við yðr *add* ABE. má] mun ABE. þeira] tveggja *add* AB. [18] ek—sér] *so* ABE, mestir eru ok bezt at sér gørvir M, *vgl.* 59[14]. sér] um alla hluti *add* A. sá—einn] annarr heitir ABE. [18—19] er kallaðr er] *om* AB. [19] hugumstóri] hugstóri E. ok—kallaðr] *om* B. er *nach* ok] *om* AE. [20] stafngláma] *so* AB *und sonst auch* M, stafnglamma M *hier*, stafnglámr E *stets*. [20—21] hvé—hvé] hversu ABE. [21] þeir *vor* segir] *so* ABE m, *om* M. [22] hverju] skipi *add* BE. [23] I—Grímr] *om* ABE. [24] sá—Svíþjóðu] á Svíþjóð ABE. þar] með honum AB. um] á. [25] herskipum] skipum B. um] á ABE. sumrum] sumar B. þeir] *so* ABE m, *om* M. Oddr] *om* ABE.**

M. váru búnir, þá fylgir Grímr þeim til skipa, ok skiljaz þeir Oddr ok kumpánar hans við Grím.

**16.** Þeir sigla ór Hrafnistu þegar er þeim gaf byr; ekki segir frá ferð þeira, fyrr en þeir koma til Svíþjóðar ok koma á nes eitt, er gekk af meginlandi til hafs; þar tjalda þeir yfir skipum sínum. Nú ganga þeir á land ok upp á nesit at sjá til tíðinda, en þar liggja þeir qðru megin undir nesinu xv skipum, en herbúðir eru á landi. Oddr sér, at hermenn eru á leiki hjá tjqldunum úti, þar ráða þeir Hjálmarr fyrir skipum ok Þórðr stafngláma. Ok nú ganga þeir Oddr til skipa sinna ok segja þessi tíðindi. Þá spyrr Guðmundr, hvat til ráða skal taka. «Nú munu vér skipta liði váru» kvað Oddr «í helminga; skulu þér halda liði yðru fram fyrir nesit ok œpa heróp á þá er á landi eru, en ek mun ganga á land upp við helmingi liðs ok fram it efra með skógi; munu vér þá œpa annat heróp. Nú má þat verða, at þeim bregði við nqkkut, ok mér kemr þat í hug, at þeir muni hlaupa á skóga ok munu vér eigi meira við þurfa». En þat er sagt frá tiltekju þeira Hjálmars, þá er þeir heyrðu heróp þeira Guðmundar, at þeir bregða sér ekki við, er á leikinum váru, ok þá er þeir heyra annat heróp á land upp, þá nema þeir staðar á meðan, en þegar er þat líðr af, taka þeir til leiks ok léku sem áðr. Nú snúa þeir aptr undir nesit hvárirtveggju, ok finnaz þeir Oddr ok Guðmundr. «Eigi er víst, hvárt þeir eru svá skelfir», segir Oddr «er vér hqfum hér fyrir fundit». «Hvat viltu nú ráða taka?» segir Guðmundr. «Skjót eru mín ráð», segir Oddr «hér skal ekki stelaz á þessa menn; munu vér liggja í nótt undir nesinu ok bíða hér morgins». Þá ganga þeir á land með lið

[1] þá—skipa] stíga þeir á skip E. þá—þeim] gengu þeir ok leiðir Grímr þá AB. [2–3] Oddr—Þeir] feðgar með miklum kærleikum. Þat er at segja frá þeim Oddi at þeir ABE. [4] til Svíþjóðar] við Svíþjóð ABE. [4–5] ok—gekk] þar sem eitt nes gekk AB, þar var eitt nes er gekk E. [6] Nú—þeir] Oddr gengr ABE. á land—nesit] á nesit M, á land upp ABE, *vgl.* 61[2–3]. [7] til tíðinda] tíðindi ABE.

ok lǫgđu viđ nes eitt, þat er gekk til hafs. Þeir tjǫlduđu S. þar yfir skipum sínum, ok síđan gengu þeir á land ok upp á nesit. En þar lágu þeir ǫđrumegin undir nesinu međ xv skipum, Hjálmarr ok Þórđr, ok hǫfđu herbúđir á landi ok váru at leiki þar hjá tjǫldunum. Þeir Oddr snúa nú til skipa sinna ok sǫgđu þessi tíđindi. Guđmundr spyrr, hvat nú skal at hafaz. Oddr mælti: «nú skal skipta liđi váru í helminga; skulu þér halda helmingi liđs fram fyrir nesit ok œpa heróp, en ek mun ganga á land upp međ helming liđs ok fram it efra međ skóginum; munu vér þá œpa óp annat. Nú má þat vera, at þeir bregđi viđ ok hyggi liđ várt meira. Kann vera, at þeir hlaupi á merkr á braut». Þeir gøra nú svá. En er þeir heyra heróp þeira Guđmundar, þá bregđa þeir ekki viđ, er at leikinum váru. Þvínæst heyra þeir annat heróp koma upp. Þá námu þeir stađ, er úti váru, ok þegar þat leiđ af, þá taka þeir til leiks sem áđr. Þeir Oddr snúa þá aptr hvárirtveggju, ok mælti Oddr: «meiri ván þykki mér, at meira þurfim vér viđ, ok ekki muni þessir skelfaz viđ úfriđinn». Guđmundr spurđi, hvat þá skyldi til ráđs taka. Oddr mælti: «á þessa menn skal ekki stelaz, skulu vér liggja hér í nótt».

[1] ness eitt] nesteit S. [4–5] váru—leiki] *om* S, váru at leikum *Rask*.

en] hann sér (at *add* B) *add* BE. liggja—megin] *om* E. þeir] *om* AB. [8] skipum] skip ABE. eru] standa ABE. sér] *so* ABE, segir þeim M. [8–9] at—leiki] at þar eru leikir úti AB, þar er leikr fram E. [8] eru] sé M. [9] tjǫldunum] *so* AB, búđum M, *vgl.* 61[5]. ráđa þeir] *so* ABE, *om* M. [10] stafngláma] *om* ABE. ganga—Oddr] gengr Oddr aptr ABE. [11] ok segja] ok segir ABE, svá sem þeir hafa sét M, *vgl.* 61[5–6]. þessi] þeim E. [13] þér] þeir M. liđi yđru] liđi sínu M, skipum yđrum ABE. [13–14] á þá] þeim ABE. [14] á land upp] *om* E. upp] *om* AB. viđ] međ ABE. [15] međ skógi] eptir skóginum ABE. œpa] þeim *add* AB. [16] þat verđa] þá vera AB [17] muni hlaupa] flýi í brott ABE. [17–18] munu vér] þurfi vér AE, þurfum B. [18] þurfa] *om* ABE. tiltekju] tiltekja M. [20] ekki] hvergi A. er—váru] *om* A. þá er] þegar B. [21] upp] *om* E. stađar] stađ ABE. [22] þegar] *om* ABE. taka—léku] leika þeir (jafnt *add* E) ABE. [23] þeir *vor* Oddr] aptr *add* E. [24] er] veit ek ABE. eru—skelfir] munu skiljaz viđ lítit E. þeir] þessir AB. [26] eru—ráđ] er til ráđa E. [27] menn] hér *add* ABE. [28] hér] svá E. Þá] um morgininn E.

M. sitt alt ok til fundar við Hjálmar, ok þegar er þeir sjá víkinga á land ganga, herklæðaz þeir Hjálmarr ok lið þeira ok ganga í móti þeim Oddi, ok spyrr Hjálmarr, er þeir finnaz, hverr fyrir liði réði, en Oddr segir: «hér eru fleiri hǫfðingjar fyrir en einn». «Hvat heitir þú?» segir Hjálmarr. «Ek heiti Oddr, sonr Gríms loðinkinna ór Hrafnistu». «Ertu sá Oddr, er fór til Bjarmalands fyrir nǫkkurum vetrum, eða hvert er ørendi þitt hingat?» «Ek vil vita, hvárr okkar meiri maðr skal vera». «Hvé mart hefir þú skipa?» segir Hjálmarr. «Vér hǫfum fimm skip», segir Oddr «eða hversu mart lið hafi þér?» segir Oddr. «Vér hǫfum xv skip» segir Hjálmarr. «Þá er munr liðs mikill» segir Oddr. «Hér skulu sitja hjá tíu skipshafnir», segir Hjálmarr «ok maðr manni í mót koma».

**17.** Nú búaz þeir til bardaga hvárirtveggju ok fylkja liði sínu ok berjaz, meðan dagrinn endiz. Þá er brugðit upp friðskildi, er kveld kom, ok spyrr Hjálmarr, hversu Oddi þœtti at hafa farit um daginn, en hann lét vel yfir. «Viltu eiga þann leik optar?» segir Hjálmarr. «Ekki ætla ek annat», segir Oddr «fyrir því at ek hefi aldri betri drengi fyrir hitta né harðfengri. Nú munu vér til bardaga taka at ljósum degi». Nú er svá gørt, sem Oddr mælti, ok binda menn sár sín um kveldit, ok fara menn til herbúða, en um morgininn fylkja menn liði sínu hvárirtveggju til bardaga ok berjaz þann dag allan. Ok er á leið daginn, þá var brugðit upp friðskildi. Oddr spyrr, hversu Hjálmari hafi þótt ganga orrostan, en hann lét vel yfir. «Hvárt viltu, at vit eigim leik þenna inn þriðja dag?» segir Hjálmarr. Þá mælti Oddr: «nú skal til stáls sverfa með

[1] þegar] þá E. víkinga] lið *add* B. [2] Hjálmarr—þeira] *om* AB. [4] liði] hernum E. segir] svarar ABE. fyrir *vor* en] *om* AE, liði *add* B. [7] nǫkkurum vetrum] skǫmmu ABE. [9] skipa] skip E. [9–10] Vér hǫfum] ek hefi ABE. [10] fimm skip] sjau E. eða] Oddr spyrr E. mart lið] mikit (lið *add* A) AB, mǫrg skip eða lið E. [11–12] munr liðs] liðsmunr ABE. [12] mikill] *om* E. Hér—tíu] þá skal setja hjá átta E. [13] koma] vera A, ganga E. [14] þeir] *om* ABE. [15] brugðit] haldit AB. [16] kveld kom] kveldar

Nú gøra þeir svá, ok þegar er vígljóst var, herklæđaz þeir S. Oddr ok ganga á land til fundar viđ Hjálmar. Ok þegar þeir Hjálmarr sjá víkinga á landi međ herklæđum, herklæđaz þeir ok ganga á land ok liđ þeira ok í mót þeim Oddi, ok þegar nemr kall, spyrr Hjálmarr, hverr fyrir liđi því réđi. Oddr sagđi til sín. Hjálmarr mælti: «ertu sá er fór til Bjarmalands fyrir nqkkurum vetrum, eđa hvert er ørendi þitt hingat?» Oddr segir: «ek vil reyna, hvárr okkar er meiri mađr». Hjálmarr segir: «hvé mqrg skip hefir þú?» Oddr mælti: «vér hqfum fimm skip ok hundrađ manna á hverju, eđa hversu hafi þér?» «Vér hqfum xv skip» segir hann «ok hundrađ manna á hverju, en engu skal þik þat skipta; hér skulu sitja hjá tíu skipshafnir ok skal mađr manni í mót». Oddr segir: «drengiliga er þat mælt». Ok eptir þat búaz hvárirtveggju til bardaga ok fylkja liđi sínu ok berjaz síđan, međan dagr endiz. Þá er brugđit upp friđskildi, ok spyrr Hjálmarr Odd, hversu honum þykki hafa at farit um daginn. Oddr lét vel yfir. «Viltu leik þenna optar?» segir Hjálmarr. «Ekki ætla ek annat», segir Oddr «þvíat ek fann aldri betri drengi fyrri né harđfengri». Nú binda menn sár sín of kveldit ok fara til herbúđa hvárirtveggju. En um morguninn fylkja hvárirtveggju liđi sínu ok búaz til orrostu ok berjaz dag annan. Um kveldit var brugđit upp friđskildi, ok þá spyrr Oddr, hversu honum þykki at hafa farit. Hann lét vel yfir, «ok muntu vilja leik

16–18 -skildi—Viltu] *der obere teil der zeile ist abgeschnitten*, *das ganze aber zu lesen.*

AB. Hjálmarr] Odd *add* ABE. Oddi] honum ABE. 19 aldri] eigi ABE. fyrir] *om* ABE. harđfengri] harđfengari menn ABE. 20 munu vér] skal E. 21 gørt] gior M. mælti] fyrir *add* ABE. binda—sín] *so* ABE, eru bundin sár manna M, *vgl.* 63[20]. um kveldit] *in* ABE *nach* (22) herbúđa. 22 menn *vor* til] *om* ABE. morgininn] eptir *add* AB. menn *vor* liđi] *om* ABE. 23 sínu] sinni M. til bardaga] *so* ABE, *om* M, *vgl.* 63[22], at ljósum degi *add* E. 24 brugđit] haldit E. 25 hafi þótt] þótti ABE. orrostan] um daginn *add* ABE. 26 viltu] Hjálmarr, segir Oddr *add* ABE. 27 segir—sverfa] ok sverfi þá til stáls B. til] *om* E. sverfa] hverfa E.

M. okkr». Þá tekr Þórðr til orða: «er þar fjárván mikil á skipum yðrum?» «Þat ferr fjarri», segir Oddr «vér hǫfum enskis fjár aflat í sumar». «Þat ætla ek», segir Þórðr «at ek hafa þess hvergi komit, at úvitrari menn hafi saman komit en hér; vér berjumz um ekki nema kapp ok metnuð». «Hversu viltu at snúa nú?» segir Oddr. «Sýniz yðr eigi ráð», segir Þórðr «at vér gørim félag?» «Þat líkar mér vel», segir Oddr «en eigi veit ek hversu Hjálmari er um þat gefit». «Ek vil» segir Hjálmarr «þau ein víkingalǫg, er ek hefi áðr hǫfð». «Þá veit ek þat, er ek heyri, hvé skapfeld mér eru þau» segir Oddr. Þá segir Hjálmarr: «þat er fyrst frá at segja, at ek vil eigi hrátt eta né lið mitt. Þat er margra manna siðr, at vinda vǫðva í klæðum ok kalla þat soðit, en mér þykkir þat vera þeira manna siðr, er líkari eru vǫrgum en mǫnnum. Ek vil aldri ræna kaupmenn né búkarla meira, en ek þarf at hafa strandhǫgg á skip mín í nauðsyn, ok vil ek aldri konur ræna, þóat vér hittim þær á land uppi með miklum fjárhlut.) Eigi skal ok konur til skipa leiða nauðgar, ok ef hon kann þat segja, at hon fari nauðig, þá skal sá engu fyrir týna nema lífinu, hvárt er hann er ríkr eða úríkr».) «Góð þykki mér þessi lǫg», segir Oddr «ok mun ekki þat nema við félagi váru». Nú gøra þeir félag sitt, ok er svá sagt, at nú hafa þeir jafnmikit lið alt saman, sem þeir Hjálmarr hǫfðu, áðr þeir funduz. Nú spyrr Oddr, hvar þeir vissi þá fengjar ván helzt, en Hjálmarr segir: «á Sjálǫndum veit ek berserki

[1] mikil] v...ok mikit A, mikit B. á] *so* ABE m, *om* M. [2] yðrum] *so* ABE, yðar m, *om* M, *vgl.* 65[3]. Oddr] því *add* E. fjár] *so* ABE, *om* M, *vgl.* 65[4]. [3] þess] þar E. [4] at] et M, ek hafi fundit *add* E. hafi—hér] *om* E. saman komit] fundiz AB. hér] því *add* AB. [5–6] at snúa] tilhátta A, tilhætta B, athátta E. [6] Sýniz] þykkir ABE. yðr] ykkr B. eigi] þat (gott *add* E) *add* ABE. [8] er—gefit] *so* ABE, líkar M, *vgl.* 65[8]. [9] hǫfð] haft ABE. [9–10] Þá—heyri] þat veit ek þá ek heyri þau AB. [9] Þá] þat E. [10] þat] þau E. skapfeld—eru] skapfelt mér er um A. [11] frá] *om* ABE. [12] eigi] aldri ABE. né—mitt] *so* ABE, með mínum mǫnnum M, *vgl.*

þenna inn þriđja dag?» «Já», segir Oddr «nú skal sverfa til stáls međ oss». Þá mælti Þórđr: «er þar fjárván mikil á skipum þínum?» «Eigi er þat», segir Oddr «þvíat vér hofum enskis fjár aflat í sumar». «Hér heyrđa ek sagt» kvađ Þórđr «frá úvitrastum monnum, þvíat vér berjumz fyrir ofrkapp eitt ok metnađ». «Hvat viltu nú at hafaz at því?» segir Oddr. «Ek vil», segir Þórđr «at vér gørim félag». «Vel líkar mér þat», segir Oddr «en ei veit ek, hversu Hjálmari er um gefit». Hjálmarr mælti: «ek vil þau ein víkingalog hafa, er ek hefi áđr haft». Oddr segir: «heyra vil ek þau, áđr ek játa». Hjálmarr mælti: «ek vil aldri hrátt eta né liđ mitt ok ei blóđ drekka. Þat er ok margra manna siđr, at vinda vođva í klæđum ok kalla þat þá sođit, en mér þykkir þat vera varga matr. Ek vil aldri kaupmenn ræna né búkarla meira, en svá sem ek þarf til strandhoggva, ok leggja þó verđ eptir fult. Ek vil ok aldri konur láta ræna, hvargi sem þær finnaz međ miklum fjárhlut. Tekr ok nokkurr minna manna konu nauđga eđa leiđir nauđga til skipa, sá skal engu fyrir týna nema lífi sínu, hvárt er hann er ríkr eđa úríkr». Oddr mælti: «vel þykki mér log þín ok undir oll þau vil ek ganga».

### Dráp berserkja.

Nú gøra þeir félag sitt ok hafa þeir nú jafnmikit liđ allir

[13] vera] vara S.

65[11], því *add* ABE. [13] vinda] vindva M. þat] *om* E. [14] vera] *om* ABE. manna] *om* ABE. [15] meira] meir ABE. en] svá sem *add* ABE. [16] strandhogg] *so* ABE, *om* M, *vgl.* 65[15]. [17] hittim] finnum A, hittum BE. land] landi ABE. [18] fjárhlut] fjárhlutum A. skipa] skips ABE. [19] hon *vor* kann] nokkur E. þat] at *add* ABE. [20] lífinu] lífi sínu ABE. Góđ] góđa B. [21] þessi] þín AB. [21–22] ok—váru] *om* E. [21] nema] meina A, spilla m. viđ] *so* B, *om* MA. [22] félagi] *so* AB m, *om* M. [23] alt saman] allir AB, *om* E. [23–24] sem—funduz] þá þeir funduz, sem Hjálmarr ok Þórđr hafđi, en svá margr mađr hefir fallit af hvárutveggjum, sem þeir hofđu þangat, Oddr ok Guđmundr E. [23] þeir Hjálmarr hofđu] *so* m; þeir hofđu þeir Hjálmarr M. [24] Nú] eptir þetta ABE. Oddr] at *add* AB. [25] helzt] *om* ABE. Sjálondum] Sælund AB, Sjáland E. ek] liggja *add* ABE.

M. þá fimm, er harđfengri eru en flestir menn ađrir, þeir er vér hǫfum spurdaga til; Brandr heitir einn en annarr Agnarr, Ásmundr inn þriđi, Ingjaldr fjórđi, Álfr fimti; eru þeir ok brœđr allir ok hafa sex skip ok ǫll stór». Þá spyrr Hjálmarr, hversu Oddr vill haga fǫrum sínum. Þá kýss Oddr þar til at leggja, er berserkirnir váru fyrir, ok svá sem þeir koma viđ Sælǫnd xv skipum, þá spyrja þeir þau tíđindi, at berserkir váru gengnir á land upp at hitta frillur sínar. Þá gengr Oddr á land upp einn saman til fundar viđ berserki alla, ok þegar er þeir finnaz, þá lýstr þar í bardaga međ þeim ok lýkr svá, at Oddr fellir þá einn alla; varđ hann ekki sárr. Ok nú sem Oddr var á land genginn, þá saknar Ásmundr hans af skipum, ok segir Ásmundr nú Hjálmari svá búit. «Þat mun bregđaz eigi, at Oddr mun á land genginn at finna berserki, ok skulu vér nú eigi vera sýslulausir međan». Heldr Hjálmarr þar til sex skipum, sem víkingarnir eru, ok búaz viđ hvárirtveggju, ok lýstr þar í bardaga međ þeim. Þat var alt jafnskjótt, at Oddr kom ofan, ok Hjálmarr hafđi rudd skip berserkjanna; nú segir hvárr ǫđrum tíđindi. Þar hafa þeir bæđi aflat sér fjár ok virđingar. Þá býđr Hjálmarr Oddi međ sér til Svíþjóđar, ok þat þiggr Oddr, en Háleygir fara norđr til Hrafnistu, Guđmundr ok Sigurđr, međ liđi sínu ok mæla mót međ sér austr viđ Elfi.

**18**. Frá því er nú at segja, at þeir Hjálmarr ok Oddr koma til

---

[1] þeir] *om* E. [2] spurdaga til] spurn af ABE. [3] inn] *om* ABE. [4—5] Þá—vill] eđa hversu viltu nú, OddrA. [5] haga fǫrum] hátta (til *add* AE) ferđum ABE. sínum] várum A. [5—6] Þá—leggja] «þar vil ek at halda» sagđi Oddr A. [5] til] at B. [6] leggja] halda E. berserkirnir] *so* AE, víkingarnir M, *vgl.* 67[6], þeir berserkir B. fyrir] *om* B. ok—koma] ok (*om* A) þar (þeir A) koma þeir (nú A) ABE. [7] xv] *so* ABE, x M, *vgl.* 62[11] *und* 64[23]. þá—þeir] ok spyrja ABE. [8] upp] *om* ABE. [9] berserki] þá AB. alla] *om* ABE. þegar] *om* AB. [10] međ þeim] *om* AB, gefa þá hvárir ǫđrum stór hǫgg E. lýkr] honum *add* ABE. [11] einn] *om* ABE. varđ hann] en varđ ABE. [12] af skipum] *om* ABE. [13—14] Ásmundr—eigi] HjálmariE. [13] Ásmundr—búit] til Hjálmars AB. bregđaz] rjúfaz AB. [14] mun] sé E. at—berserki] *om* ABE. [15] vera] *om* ABE. Heldr Hjálmarr] ok fǫrum E. þar til]

saman, sem þeir Hjálmarr, áđr þeir funduz. Þá spyrr Oddr, S. hvat þeir vili athafaz, eđa hvar þeir viti fjárván nqkkura. Hjálmarr segir: «á Selund veit ek beserki þá fimm, er harđfengri eru en flestir ađrir; heitir Brandr ok Agnarr, Ásmundr ok Ingjaldr ok Álfr. Þessir eru brœđr ok hafa sex skip». Oddr léz vilja at þeir heldi til móz viđ berserkina. Ok þvínæst koma þeir viđ Selund ok finna þar á þessi skip. En þat var þar til tíđinda at berserkir váru gengnir á land upp fimm saman. Þeir Oddr tjalda yfir skipum sínum, ok um kveldit fara menn at sofa. Um nóttina tekr Oddr vápn sín hljóđliga ok gengr á land einn saman; hann stefnir þangat, sem hann vissi ván berserkjanna. En um morgininn, er ljóst var, gengu berserkir til skipa ok þá mœta þeir Oddi, ok slær þar þegar í bardaga harđan; veita þeir Oddi grimmliga atsókn, en hann verz þeim harđfengliga. Ok svá lýkr þeira leik, at hann drepr þá alla, en hann var lítt sárr. Snemma um morgin saknar Ásmundr Odds ok segir Hjálmari, at Oddr er af skipum genginn. Þá segir Hjálmarr: «þat mun eigi bregđaz, at hann mun farinn til fundar viđ berserkina. Nú skulu vér ok eigi vera sýslulausir». Hjálmarr heldr nú þar til sex skipum, er víkingarnir váru, ok bjugguz viđ hvárirtveggju, ok |síđan lýstr þar saman bardaga. Var þat alt jafnskjótt, er Oddr kom ofan, ok þá hafđi Hjálmarr hrođit skip þeira qll; hqfđu þeir þar aflat úgrynni fjár.

[2] hvar—viti] *so* s, *om* S, viti *Rask*, *vgl.* 64[24].

þangat ABE. [15—16] sex skipum] *so* AB, *om* ME, *vgl.*67[20]. [16] ok—hvárirtveggju] *om* A, ok svá gøra þeir E. [17] međ þeim] *om* ABE. jafnskjótt] jafnsnemma AE. [18] kom] af landi *add*A,at *add*B. rudd] hrođit BE, unnit A. skip berserkjanna] *so* BE, skip berserks M, skipin A. [18—19] segir hvárr] segja hvárir ABE. [19] Þar] ok ABE. hafa] *hier fängt das erste fragment von* C *an.* aflat] unnitE. [20] virđingar] metnađar A, frægđar CE. Oddi] þeim Oddi AB,þeim C,þáE. [20—21] ok—Oddr] *in* C *unlesbar.* [21]—68[1] til—tekr] *in* C *fast ganz unlesbar.* [22] međ—sínu] *so* ABE,*om* M, *vgl.* 69[4]. [23] Frá—koma] en er þeir Hjálmarr koma A, nú koma þeir (Hjálmarr *add* B) BE. [23]—68[1] til Svíþjóđar] í Svíþjóđ ABE.

M. Svíþjóđar um haustit, ok tekr Hlǫđver konungr með þeim báđum hǫndum, ok sitja þar um vetrinn í kyrđum. Þar leggz svá mikil virđing á ráđ Odds, at engi mađr þykkir konungi honum líkr fyrir afls sakir. Skamma hríđ hefir Oddr þar verit, áđr Hjálmarr gaf honum fimm bú í Svíþjóđu. Konungr á dóttur eina, þá er Ingibjǫrg er nefnd. Svá er frá henni sagt, at hon var hverri konu vænni ok betr at sér gør um alla hluti, þá er kvennmann megu fríđa. Jafnan spyrr Oddr Hjálmar, þá er þeir eru tveir saman: «hví sætir, Hjálmarr, er þú biđr eigi Ingibjargar» segir Oddr «fyrir því at ek sé, at hugir ykkrir standa saman?» «Ek hefi beđit hennar», segir Hjálmarr «en konungr vill ei gipta þeim manni dóttur sína, er [hann] berr eigi konungs nafn». «Þá skulu vit draga saman liđ okkat» segir Oddr «þegar at sumri ok gøra konungi tvá kosti, hvárn hann vill heldr, at hann vill berjaz viđ okkr eđa [vill hann] gefa þér Ingibjǫrgu, dóttur sína». «Eigi vil ek þat», segir Hjálmarr «ek hefi lengi haft hér friđland». Nú sitja þeir þar um vetrinn um kyrt, en um várit búa þeir skip sín ok halda í hernađ, er þeir váru búnir. Nú er ekki sagt frá ferđ þeira, fyrr en þeir finnaz viđ Gautelfi, ok leggja þeir í rœđu međ sér, hvert nú skal halda um sumarit, en Oddr var fúsastr at halda vestr um haf. Þeir hafa xx skipa ór Noregi, ok stýrir

[1] um—ok] *om* A. međ] mót AB, viđ E. [2] báđum hǫndum] vel C. báđum] *so* ABE, *om* M. sitja] þeir *add* ABCE. í kyrđum] *om* ACE. Þar leggz] konungr lagđi E. [3] ráđ Odds] Odd ABE, C *ist undeutlich.* engi mađr] enginn AE. [4] honum líkr] hans maki A, slíkr BCE. afls sakir] *so* BCE, alt M, *vgl.* 69[9], allz sakir Am. hríđ] stund ABCE. þar] í SvíþjóđuE. [4—5] verit—honum] áđr verit, Hjálmarr á M, *vgl. die anmerkungen.* [5] Hjálmarr] konungr ABCE. gaf] *in* C *undeutlich.* fimm] þrjú E. í Svíþjóđu] *om* A, ok stóra garđa tvá međ E. [6] er nefnd] hét ABCE. [6—7] Svá—at] *om* A. [7] vænni] vænsti C. betr]betri E, bezt AB. [7—8] alla—þá] allar íþróttir þær A. [8] fríđa] prýđa CE. [9] þá—saman] *om* ABCE. [9—10] hví—Oddr] hverju (hví C) þat sætti, at (þat—at *om* C) hann bæđi eigi Ingibjargar ABCE. [10] ek—at] *om* E. [11] standa] falla (vel *add* E) ABCE. segir] svarar C. [12] dóttur sína] hana E. hann] *om* ABCE. [13] liđ] her AC. okkat] *om*

Oddr ferr til Svíþjóðar. 8.

Um haustit býðr Hjálmarr Oddi til Svíþjóðar með sér, ok þat þá hann, en þeir Ásmundr ok Guðmundr ok Sigurðr með sínu liði fara norðr til Hrafnistu ok mæla mót með sér um várit við Elfi. Þeir Hjálmarr ok Oddr koma nú í Svíþjóð ok þvínæst til hirðar Ingjalds konungs ok fá þar vegsamligar viðtǫkur ok dvǫlðuz nú þar um vetrinn. Þar lagðiz svá mikil virðing á Odd, at engi maðr hafði þar útiginn fengit þvílíka, bæði sakir viz ok atgørvi. Hjálmarr gaf Oddi þrjú. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . meyja fríðust ok vel at sér of flesta hluti. Einn tíma talar Oddr til Hjálmars þessum orðum: «hví biðr þú eigi konungs dóttur, ek sé at hugr ykkarr ferr saman?» Hjálmarr segir: «ek hefi beðit, en konungr vill eigi gipta hana útignum manni». «Þá skulu vit» segir Oddr «draga saman lið okkat at sumri ok gøra konungi tvá kosti, annathvárt at hann beriz við okkr, eða gipti þér Ingibjǫrgu, dóttur sína». «Eigi vil ek þat», segir Hjálmarr «ek hefi hér lengi friðland haft». «Nú sitja þeir þar um vetrinn, en um várit búa þeir skip sín ok halda í hernað, finna þá Ásmund við Elfi; rœða þeir þá með sér, hvert halda skal of sumarit. Oddr kvez vilja halda í vestrvíking, en Hjálmarr bað hann ráða. Hafa þeir xx

10 þrjú] *Hier ist eine zeile ganz weggeschnitten. Rask ergänzt*: (bú) . . . . (konungr átti dóttur þá, er Ingibjǫrg hét).

ABCE 14 þegar] *om* ABCE. at sumri] *om* B. 14—15 hvárn—vill *vor* berjaz] annathvárt atA, atE. 14 hvárn] hvertBC. 15 at hann vill]*om*BC. vill hann]*om*ABCE. 16 gefa]gipta E. Ingibjǫrgu] *om* ABCE. vil] veit ABCE. 17 Hjálmarr] því *add* ABE. C *ist undeutlich*. 17—18 Nú—kyrt]*om*E. 18—19 búa—búnir] bjuggu þeir sik í hernað ok hættu svá þeiri rœðu E. 18 búa—halda] halda þeir A. skip sín] ferð sína BC. halda]faraC. 19 er *vor* þeir]þegarA. þeir]*so* ABC,*om*M. sagt—þeira] af þeim at segja E. ferð] ferðum AB. 20 við Gautelfi] allir E. 20—21 leggja—sér] þá rœða þeir um C. 20 rœðu] umrœðu ABE. 21 nú—halda] *so* ABCE, þeir skulu stefna M, *vgl.* 69[21]. um sumarit] *om* E. var] segir A, segir at hann var (kvez B) BC. 22 halda] *so* ABCE, fara M, *vgl.* 69[22]. ór Noregi] *om* AE.

M. Oddr drekanum Hálfdanarnaut. Nú koma þeir við Skotland, þar veita þeir upprás ok herja ok brenna ok bæla, hvar þeir fara; þar létta þeir eigi fyrr við, en þeir leggja skatt á landit. Þaðan halda þeir til Orkneyja, þær leggja þeir undir sik ok sitja þar um vetrinn.

**19.** En eptir um várit fara þeir til Írlands ok herjuðu bæði með sjánum ok á landit. Þess ferr Oddr hvergi, at eigi fylgi Ásmundr honum í hernaði ávalt; þar flýr undan þeim allr landslýðr á merkr ok skóga, bæði konur ok karlar, ok fela fjárhlut í leynum ok sjálfa sik. Þat er nú einn dag, er þeir Oddr eru staddir á landi upp tveir saman; Oddr var svá búinn, at hann hafði qrvamæli sinn á baki sér en boga sinn í hendi, ok leita þeir manna, ef þeir fyndi nqkkura; en Oddr finnr eigi fyrr, en strengr gellr í skógi, ok þar með at qr flýgr ór skóginum ok nemr eigi fyrr staðar, en hon kemr á Ásmund miðjan, en er Ásmundr var skotinn, þá deyr hann skjótt. Þetta þykkir Oddi svá mikil tíðindi ok ill, at hann þykkiz aldri slíkan skaða beðit hafa á ævi sinni fyrr. Þá gengr Oddr á land upp, en Ásmundr lá þar eptir. Hann er nú í svá illum hug, at hann ætlar ekki annat, en gøra Írum alt þat ilt er hann má ok honum kemr í hug. Þar kemr hann ór skógi fram, sem rjóðr var mikit fyrir honum, ok hann sér manna fjqlða mikinn, bæði konur ok karla. Þar sér hann þau tíðindi, at maðr stóð upp í guðvefjarklæðum, sá hafði

[2] þar—þeir] ok veita (gøra A, hafa E) þar ABCE. upprás] upprásir ABCE. herja] *om* E. brenna] þar alt *add* E. ok bæla] ok bræla E, hvervetna ABC. [2—3] hvar—fara] þar er þeir koma ABC, *om* E. [3] þar] ok ABCE. létta] *so* ABC, lætja M, linna E. við] *om* ABCE. þeir *nach* en] *om* M. leggja—á] skattgilda A. [4] halda] fara A, leggja E, *om* B. þær] þat M. [6] eptir] *om* ABCE. til] *om* B. herjuðu] þar *add* ABE. [6—7] bæði—landit] á sæ ok landi E. [7] ok] upp *add* ABC. Þess—hvergi] *unlesbar in* C. [8] í—ávalt] en ABE, *om* C. flýr] flýðu ABE, flyi(?) C. [8—9] þeim—landslýðr] bæði A, *om* BCE. [9] bæði] bqrn ok A. fela] eignir ok *add* C. [10] í leynum] sinn ABCE. [11] Oddr *vor* eru] ok Ásmundr *add* ABE. staddir] *om* E. saman] samt B. [12] sinn] *om* ABCE. [13] leita þeir] vildu leita A. ef—fyndi]

skip af Noregi, Oddr hefir dreka sinn Hálfdanarnaut. Nú koma S. þeir fyrst við Orkneyjar ok herja þar ok leggja undir sik eyjarnar. Þeir áttu þar margar orrostur ok hǫfðu sigr í ǫllum. Þvínæst venda þeir suðr undir Skotland ok herja þar; þeir leggja undir sik mikit af Skotlandi ok sátu þar tvá vetr.

Líflát Ásmundar.

Eptir þat stefna þeir hernaðinum undir Írland ok hǫfðu þá LX skipa. Sem þeir koma við Írland, veita þeir upprásir, brenna bygðir en ræna fé ok drepa menn alla, þá er þeir náðu. En fólkit, þat er mátti, dróz á merkr ok á skóga ok báru fjárhlut sinn í leyni. Ásmundr fylgði Oddi þá sem jafnan fastast allra manna. Þat var einn dag, at þeir Oddr ok Ásmundr sóttu á landit upp; þeir fóru þá svá mikit, at engir gátu fylgt. Oddr var svá búinn, at hann hafði ǫrvamal sinn á baki en boga í hendi, en er Odd varði minnzt, heyrir hann at strengr gellr í skóginum, ok hann sér, hvar ǫr flýgr. Sú leitar staðar fyrir brjóst Ásmundi, ok þegar fell hann ok þvínæst dauðr. Oddi þykkir þetta svá mikit, at aldri beið hann fyrr þvílíkan skaða. Oddr hylr Ásmund með skildi hans ok klæðum en hann stefnir þangat í skóginn, sem ǫrin fló at; þvínæst sér hann rjóðr mikit í skóginum ok þar í mannfjǫlða mikinn, bæði konur ok karla. Þar stóð upp maðr í

[13] engir] engum S.

---

*om* E. [14] í skógi] *om* BCE, við A. þar—at] *om* ABE, þat var E. [15] ór] af ABE. [15—16] á—miðjan] at Ásmundi A, ok í gegnum hann *add* CE. [16—17] en—skjótt] ok fell hann við ok dó skjótt A, svá hann fell þegar dauðr niðr B, ok deyr hann skjótt C. [16] skotinn þá] fallinn E. [17] tíðindi—ill] skaði C. [18] slíkan skaða] slíkan C, slík E. beðit] *so* ABCE, boddit M. fyrr] *om* ABCE. [18—19] Þá—upp] *unlesbar in* A, lengra *add* E. [19] þar] dauðr E. [20] ætlar] sér *add* ABCE. [21] hann—ok] *om* ABCE. kemr] *unlesbar in* C. [22] ór—honum] at rjóðri einu A. mikit] *om* BC, eitt E. [22—23] hann sér] sér þar ABCE. [23] manna fjǫlða] mannfjǫlða BCE, fjǫlða A. Þar] *om* ABCE. [24] þau tíðindi] *om* ABCE. at—stóð] mann standa A. -klæðum] -kyrtli ABC, -skyrtum E.

M. boga í hendi, ok stóðu qrvar í velli hjá honum. Þótti Oddi at sýnu ganga, at hann muni þar eptir hefndum eiga at sjá; hann tekr eina af Gusisnautum ok leggr á streng ok skýtr at þessum manni, ok kemr sú á hann miðjan, ok sá fellr skjótt dauðr niðr. Nú skýtr hann hverri at annarri ok drepr hann þar fjóra menn aðra, en þá er hann hefir þetta unnit, þá var lið þat flýit á merkr ok skóga. Oddr er nú í svá illum hug við þá Íra, at hann ætlar alt ilt á þeim [Írum] at vinna þat er hann má. Hann gengr nú á land upp eptir skógarbraut einni mikilli, en allzstaðar þar, sem runnar váru fyrir honum, þá rífr hann upp með rótum. Þar kemr hann at í einum stað, er runnr var fyrir honum, hann þrífr til hans, en hann var nqkkuru lausari fyrir en aðrir. Hann hugði til ok sér, at þar var hurð undir, ok kippir hann henni upp ok gengr hann þar í jqrð niðr. Þar finnr hann þrjár konur í jarðhúsinu, ok ein var miklu vænni en allar aðrar. Hann þrífr þegar í hqnd henni ok vill kippa henni ór húsinu, þá tekr hon til orða: «Oddr!» segir hon «láttu mik lausa þegar í stað». Hann segir: «hvat trqll veiztu, in illa vættr, hvat ek heiti?» «Ek vissa þat þegar, er þú komt hér, hverr þú vart,

[1] í *vor* velli] *om* M. [1–2] Oddi—muni] *in* C *ist nur* ganga *lesbar.* [1] Oddi] *so* ABE, *om* M, *vgl.* 73[2]. sýnu] vísu mega A, sínu viti E. þar] *so* ABCE, *om* M, *vgl.* 73[3]. eiga at] mega E. [3] sjá] leita þar sem sá maðr er ABE. hann tekr] því tekr hann (qr *add* AE) ABE. [4] þessum manni] *so* ABCE, honum því qr M, *vgl.* 73[4]. sá] hann ABCE. [5] skjótt] þegar ABC, *om* E. niðr] *om* E. Nú—annarri] *so* ABCE, en þegar er sá var fallinn, þá lætr hann skamt qrva í milli M, *vgl.* 73[5]. ok] svá ABE. [6] fjóra] þrjá ABCE. [6–7] en—flýit] ok nú flýði liðit A, en hitt flýði E. [6] þetta] *c* C. [7] var—ok] flýr þat lið í bort á C. merkr ok] *om* ABE. [8] þá] *om* ABCE. hann] *om* M. á] *om* ABCE. Írum] *om* ABCE. [9] má] megi orka AB, orkar C. nú] þegar B. á—upp] *om* A, lengra *add* E. [10] einni] *om* C. [10–13] en—lausari] hann kippir nú upp hverjum runni með rótum, þeim sem fyrir honum verðr, hann kippir þeim runni upp einum er lausari var A. [10] allzstaðar] alt BE, *om* C. þar sem] hvar er C, þar til er E. váru] urðu BE. [11] þá—rótum] *om* E. rífr] kippir BC. hann] þeim *add* BC.

guđvefjarklæđum, sá hafđi boga í hendi, en qrvar stóđu í vellinum hjá honum. Þat þykkir Oddi at sýnu ganga, at hann mun þar eiga eptir hefndum at sjá. Oddr tekr nú eina af Gusisnautum ok skýtr at þessum manni; qrin kemr á hann miđjan, ok fell sá skjótt. Oddr skýtr nú hverri at annarri ok drepr þar sex menn; þá var ok braut flýiđr á skóga allr sá lýđr ok fjqlđi. S.

Oddr er nú međ svá illu skapi, at hann ætlar at vinna Írum nú alt þat ilt er hann má. Hann kom nú á skógarbraut eina mikla, gekk eptir, en hvar sem runnar urđu fyrir honum, þá reif hann þeim upp međ rótum. Ein hrísruđr varđ fyrir honum lausari miklu en ađrir. Han leit til ok sér, at þar var hurđ undir. Hann kippir henni upp, ok þá gekk hann þar í jqrđ niđr ok finnr þar á konur sjau, ok var ein miklu fríđari en ađrar. Oddr tekr þegar í hqnd henni ok vil kippa henni í braut ór jarđhúsinu. Þá mælti hon: «Oddr!» segir hon «láttu mik vera». Hann segir: «hvat muntu vita, at ek heiti Oddr?» Hon segir: «ek vissa þegar, er þér kómuđ hingat, hverr þú vart, ok svá, at Hjálmarr er međ þér, ok mun ek segja honum, ef ek ferr nauđig til skipa». Oddr mælti: «ei skaltu fara at síđr». Nú þrifa þær til hennar konurnar ok vilja halda á henni; hon biđr þær hætta. «Ek mun kaupa

[11] þeim] þ̄ S. [18] Hon] h S. kómuđ] *om* S.

[12] í—stađ] *om* E. runnr] einn runnastakr E. var] varđ BCE. honum] ok undarligri en ađrir, honum varđ þat fyrir at *add* E. þrífr] grípr E. [13] hans] runnans E. nqkkuru] miklu B, *om* E. ađrir] *so* ABCE, *om* M, *vgl.* 73[12]. [13—14] Hann—til] en er hann hugđi (hyggr C) at CE, *om* AB. [14] ok—var] þar sér hann ABE, verđr þar C. hann] *om* ABCE. [15] hann] *om* ABCE. þrjár] fjórar ABCE. konur] niđr *add* E. [16] ein var] eina svá C. vænni—ađrar] vænst A. allar] *om* BE. [17] henni *vor* ór] út *add* E. [18] Oddr] *om* E. [18—19] þegar—stađ] *om* ABCE. [19] hvat—vættr] hvađa trqlla mátt hefir þú til þess, at þú veizt E. in—vættr] til þess ABC. hvat] hvárt A, hvar C, at B. ek] *om* B. [20] heiti] Oddr eđa (heldr en B) annan veg (eigi C) *add* ABCE. þegar] *om* E. hér] *om* ABE.

M. ok svá veit ek», segir hon «at Hjálmarr er hér međ þér, ok mun ek kunna at segja honum, ef ek fer nauđig til skipa». «Þat er vel», segir hann «eigi skaltu fara at síđr». Nú þrífa þær til hennar konurnar ok vilja halda henni, en hon biđr þær hætta. «Ek mun kaupa at þér», segir hon «at þú látir mik lausa ok í friđi, þvíat mik skortir eigi fé». «Fjarri ferr þat», segir hann «at ek vilja fé þitt, fyrir því at ek á œrit gull ok silfr». «Þá mun ek láta gøra þér skyrtu» segir hon. «Þat er enn», segir hann «at ek á þær nógar». «Kost muntu eiga skyrtugørđar», segir hon «ok eigi þvílíkrar, sem ek mun gøra, hon mun vera gør af silki ok saumuđ međ gulli; ek mun ok láta fylgja þá kosti skyrtunni, at þú munt eigi eiga slíks kosti áđr». «Láttu mik heyra þat áđr», segir Oddr «hverir kostir fylgja skulu». «Þik skal aldregi kala í skyrtunni, hvárki á sjá né á landi, þik skal eigi sund mœđa ok eigi skal þér eldr granda ok eigi skal þik hungr sœkja ok eigi skulu þik járn bíta, viđ qllum hlutum mun ek hana gøra nema einum». «Hverr er sá hinn eini?» segir Oddr. «Sá einn er svá hlutr, at ek má eigi viđ gøra, ef þú kemr á flótta». «Þat ætla ek», segir hann «at þat sé atkvæđi, at þessir hlutir verđi ei allir sem þú hefir ákveđit, ef ek kem á flótta þá er ek kem í skyrtuna. Hvénær skal skyrtan búin vera?» «Þat skal at qđru sumri», segir hon «jafnt í þat mund dags, sem nú er, ok er nú sól í suđri. Þá skulu vit hér finnaz í þessu sama rjóđri». «Hvat kemr þér í hug», segir Oddr «ef þú efnir eigi, hverr ek muna vera yđr Írum, svá sem ek á

[1] hér] *om* ABE, þar C. [3] Þat—vel] *om* ABCE. eigi—síđr] *so* AB, einnin skaltu fara ok áđr M, *vgl.* $73^{20-21}$. at] *om* CE. þrífa] taka ABC, hlaupa E. [4] hennar] *om* E. konurnar] *om* C. vilja] *om* E. halda] á *add* B. hon] hann MBC. [6] lausa ok] fara AC, lausa ok fara BE. fé] til *add* B. [7] þat] *om* ABCE. fyrir—œrit] því mik skortir eigi ABCE. [8] ok] né ABCE. skyrtu] eina *add* E. [9] enn] enn svá ABC, svá E. þær] (skyrtur eđa *add* ABE) skyrtugørđar ABCE. [10] skyrtugørđar] *om* ABCE. mun] láta *add* A. [11] gøra] þvíat *add* ABCE. vera] *om* ABCE.

at þér, Oddr», segir hon «at þú látir mik vera í friđi, þvíat S. mik skortir eigi gørsimar». «Ek vil eigi fé þitt» segir Oddr. «Þá skal ek láta gøra þér skyrtu». Oddr mælti: «gnógar á ek þær». «Gnógar muntu eiga», segir hon, «ok ei þvílíkar, sem sjá skal vera; hon skal gør vera af silki ok saumuđ viđ gull. Þeir kostir skulu ok fylgja, at fár munu ađrar svá gøra». Oddr mælti: «lát þú mik heyra þat fyrst». Hon mælti: «þik skal aldri kala í skyrtunni, hvárki á sjá né landi; þik skal eigi sund mœđa ok eigi eldr granda, þik skal eigi hungr saka ok eigi járn bíta, ok viđ ǫllum hlutum mun ek skyrtu gøra nema einum». «Hverr er sá inn eini», segir Oddr «ef þú mátt viđ þessu ǫllu gøra?» «Viđ því má ek eigi gøra», segir hon «at járn mun þegar bíta, er þú kemr á flótta». «Ef þú lætr þessar náttúrur fylgja», segir Oddr «þá þykki mér úlíkara, at ek koma á flótta; en nær skal búin vera?» Hon segir: «annat sumar í þat mund árs ok dags, sem nú er, en nú er sól í suđri; ok hér í þessu sama rjóđri skulu vit finnaz». Oddr mælti: «en hvat kemr þér í hug, hverr ek muna vera yđr Írum, ef þú efnir eigi orđ þín, svá ilt sem ek hefi af

af silki] ór (af BE) silfri ABCE. međ] af E. gulli] gull ABE. [11—12] ek—fylgja] *unlesbar in* C. [12] at] er M. [12—13] eiga—áđr] fá þá allzstađar E [13]—76[1] slíks—þér] *unlesbar in* C. [13] slíks] þvílíkrar A. Láttu] lát ABE. þat] þá AE. áđr] *om* ABE. [14] hverir—skulu] *om* AE. í skyrtunni] *so* E, *om* M, *vgl.* 75[8], í henni AB. [17] skulu þik] *om* E. [18] hinn eini] *so* AB, *om* ME, *vgl.* 75[11]. [18—19] Sá—gøra] þat er sá sá hlutr B, «þik munu járn bíta» sagđi hon A. [19] svá] sá E. kemr] ert A. á] í M. [20] flótta] þóttu sért í skyrtunni *add* AB. [20—22] Þat—skyrtuna] «annat vilda ek optar vinna í orrostum en flýja» segir Oddr A. [20] Þat—atkvæđi] þat mæla ek um B. atkvæđi] atkveđit E. [21] verđi—ákveđit] fylgi engir skyrtunni B, allir fylga nema sá sem þú hefir aftekit E. ei] *so* m, *om* M. [22] þá—skyrtuna] í henni B, í skyrtunni E, eđa *add* ABE. skyrtan] hon AE. búin] gør A. [23] vera—skal] *om* ABE. ǫđru] *so* ABE, *om* M, *vgl.* 75[16]. [26] dags] *so* ABE, *om* M, *vgl.* 75[16]. er *vor* ok] *so* ABE, *om* M, *vgl.* 75[16]. ok—nú] *om* E. [26] eigi] þetta *add* AB. hverr—vera] hvat (hvern kost A, hvern B) ek mun gøra ABE. Írum] *om* AB.

